// Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

15. árg. WINNIPEG, FEBRÚAR 1901. Nr. 12.

## Í föstu-inngang.

Sálmr eftir séra VALDEMAR BRIEM út af orðunum: „Þegar þeir höfðu lofsönginn sungið, fóru þeir til Olíufjallsins“ (Matt. 26, 30).

(Lag: Eg heyrði Jesú himneskt orð.)

1. Þei, þei, eg fagran heyri hljóm,
ó, hlusta, sál mín nú;
svo dýrðar-skæran unaðs óm
fyrr aldrei heyrðir þú.

2. Hver syngr þannig sœtt og blítt,
á sálar strengi knýr?
Hver lofar guð svo ljúft og þýtt?
Það lausnarinn er dýr.

3. Ó, jörð og himinn, hlusta nú
á hljóminn skæra þann.
En hvernig getr þagað þú,
er þannig syngr hann?

4. Já, syng þú himinn, syng þú jörð,
er syngr drottinn þinn.
Þér menn og englar, öll guðs hjörð
tak undir lofsönginn.

5. A drottins hlusta svanasöng
og syng þú undir með.

Í sorgum lífs og sárri þröng
við sönginn hans þig gleð.

6. Hann syngr guði sigrhrós,
þótt sjái fyrir stríð;
hann syngr dýrt um dýrðarljós,
þótt dimmi' að nætrtíð.

7. Hann syngr blítt um sælu' og ró,
þótt sjái búna kvöl;
hann syngr hýrt um frið og fró,
þótt finni' í hjarta böl.

8. Hann syngr ljúft um líkn og náð,
þótt liggi fyrir þraut;
hann syngr glatt um lífsins láð,
þótt leggi' á dauðans braut.

9. Ó, maðr, jafnan mundu það,
hvað mjög þér ólíkt fer.
Hvað lítið sem þér amar að,
þú óspart barmar þér.

10. Ef eitthvað lítið út af ber
um einhvern stundarhag,
þá kvarta þú og kveina fer
og kveðr sorgarlag.

11. Þótt leiðin finnist löng og ströng,
ei lát það á þig fá;
tak undir drottins sigrsöng,
og sorgin dvínar þá.

12. Um Jesú pínu syng þú sætt,
við sárin hans þig gleð;
þá verðr allt þitt angr bætt
og einnig dauðinn með.

---

## Lát drottningarinnar.

Svo sem kunnugt er andaðist Victoría drottning á Englandi 22. f. mán. Óteljandi opinberar guðsþjónustur voru

haldnar í kristnum kirkjum víðsvegar um brezka ríkið og enn miklu víðar út af þeim atburði dagana næstu á eftir, einkum þó sunnudaginn næsta, sem eftir fornu kirkjulegu tímatali var þriðji sunnudagr eftir þrettánda. Hið fastákveðna guðspjall þess dags hjá oss er Matt. 8, 1—13. Við kvöldguðsþjónustuna í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg þann dag lagði prestr safnaðarins (ritstj. ,,Sam.") út af síðara parti þess guðspjalls, sögunni um hundraðshöfðingjann í Kapernaum, og talaði um stríðin og sjúkdómana, þær tvær hræðilegu böltegundir, einkum þó hina fyrr nefndu. Vikið var þar sérstaklega að hinum hörmulega ófriði þessara síðustu tíma milli Breta og Búa í Suðr-Afríku. Minnt sömuleiðis á það, hve sárt nútíðarkynslóðin í öllum menntalöndum heimsins fyndi til út af þeim ófögnuði og hve sterk væri nú orðin þrá almennings eftir því, að alþjóðafriðr kœmist á. En seinasti kafli rœðunnar var á þessa leið:

,,Eg leyfi mér nú að setja í samband við þetta mál endrminninguna um Hennar Hátign Victoríu drottning, yfirstjórnanda hins víðlenda brezka ríkis, sem hinn almáttugi konungr himins og jarðar, herra lífsins og dauðans, hefir nú nýkallað burt til sín inn í eilífðina. það þarf naumast að skora á neinn að bera lotning fyrir nafni hennar látinnar og hafa minning hennar í heiðri; því hinar ljómandi lífseinkunnir hennar sem konu, móður og stjórnara eru af öllum viðrkenndar. En á eitt vil eg sérstaklega minnast. Hún hafði á sinni löngu og göfugu stjórnartíð ákaflega þunga byrði að bera. Ekki að eins sína persónulegu byrði eins og allir aðrir, heldr líka alveg framúrskarandi annarlega byrði. Skyldubyrði og syndabyrði þjóðarinnar, sem hún heyrði til, og hins mikla ríkis, sem hún stýrði. þegar hún nærri því barn að aldri settist í drottningar-hásætið, þá lagði hún sig í drottins nafni undir þessa voðalega miklu annarlegu byrði. Hver einasti maðr, sem settr er yfir aðra, fær um leið og hann tekr við embætti sínu syndabyrði allra þeirra manna að meira eða minna leyti yfir sig. Guð sjálfr leggr slíka annarlega byrði á hvern einstakan slíkan mann. Og nauðugir viljugir verða þeir að bera hana með sinni eigin. Og því samvizkusamari sem þeir eru,

því meiri þá að sjálfsögðu sársauki lífs þeirra. Allir stjórnendr landanna og ríkjanna eru fyrir þessa sök kallaðir til að vera drottinlegir píslarvottar. Hin framliðna góða drottning var slíkr píslarvottr svo lengi sem drottinn lét hana sitja í hinu jarðneska hásæti. Einn þáttrinn í því píslarvætti, og ekki hinn minnsti, var vissulega út af stríðinu raunalega, sem Bretar hafa átt í síðan í hitt hið fyrra og allir eru nú um að hugsa með svo mikilli hluttekningarsemi og sársauka. Enginn hefir víst fundið sárara til út af því en hún, hin góða drottning. Og sárast* að fá það mótlætis-slag yfir sig í svo hárri elli. Öll stríð eru að einhverju leyti syndahegning frá guði. Þetta þá líka. Og vafalaust þá ekki að eins hegning fyrir syndir Búa, heldr líka fyrir syndir brezku þjóðarinnar. Og syndahegningin þeim megin hlaut stórvægilega að lenda á henni, sem var yfirstjórnari þessa ríkis. Meðfram—og það jafnvel einna helzt—ætti þá þakklæti vort til drottningarinnar látinnar, og þakklæti allra, sem verið hafa þegnar hennar, vissulega að vera út af því, að hún í hásætinu bar, að því er stjórnmálin snerti, syndir síns eigin fólks, og bar þær svo vel sökum þess hún var svo vel kristin.''

,,Og er vér svo hugsum um hinn göfuga son hennar, sem nú hefir tekið við konungdóminum undir nafninu Edward hinn sjöundi, þá ættum vér líka að muna eftir hinni miklu annarlegu byrði þjóðar hans og ríkis, sem guð hefir lagt á herðar hans um leið og hann settist í hásætið, og biðja guð um að veita honum náð til þess að bera þá byrði til enda þegnum hans til blessunar og honum sjálfum til sáluhjálpar í Jesú nafni.''

Sú tegund hinnar vísindalegu biblíufrœði, sem nefnd er ,,hærri kritík'', stefnir að því að rannsaka efni hinna helgu rita í þeim sérstaka tilgangi að leita þar eftir sönnunum fyrir því, á hvaða tíma rit þau hafi upphaflega verið í letr fœrð, hverjir sé höfundar þeirra og hvernig þau að öðru leyti sé til orðin. Þessi frœðigrein er svo nefnd til þess að aðgreina hana frá hinni ,,lægri kritík'', sem er að eiga við rannsókn biblíu-handritanna, er geymzt hafa frá fornöld, —ber þau

saman hvert við annað, leitast við að ákveða aldr þeirra og hið mismunanda verðmæti þeirra, til þess svo, eftir því sem kostr er á, að komast að því, hvernig frumtextinn hafi verið. Þessi rannsókn þarf að ganga á undan efnisrannsókninni ; hún liggr að því leyti lægra. Með tilliti til þessa er talað um *lægri* og *hærri* ,,kritík". Þessi tvennskonar rannsókn kemr til greina ekki að eins þá er um biblíuna er að ræða, heldr og alveg eins að því, er snertir öll fornaldarrit, t.a.m. Grikkja og Rómverja, hinna íslenzku forfeðra vorra o.s.frv. —Í stað gríska orðsins ,,kritík" vildi víst sumir málfróðir landar vorir að haft væri ,,gagnrýni" eða ,,greind" eða einhver annar nýgjörvingr íslenzkr. En allt slíkt er óhafanda og verðr oft að hlœgilegri heimsku hjá þeim, sem eru að myndast við að hafa það eftir í rœðu eða riti. Flest nýju orðin, sem verið er að smíða af Íslendingum á þessari tíð, eru mjög ósmekkvís og með öllu óþörf, og miklu óskiljanlegri almennum lesendum en útlendu orðin, sem þau eiga að tákna. Hin mikla nýyrðatilhneiging hjá Íslendingum á þessari tíð er orðin að sjúkdómi, bókmenntalegri plágu. Menn létu ekki svona á gullöld þjóðar vorrar, þá er hin ágætustu íslenzku fornrit urðu til. Aðrir eins rithöfundar og Snorri Sturluson hikuðu sér ekki við að taka útlend orð inn í tungumál vort, þegar ekki voru þar fyrir orð, sem táknuðu hið sama. Ef þessi nýyrða-sýki heldr áfram hjá oss, þá má búast við að farið verði að rýma öðrum eins orðum út úr íslenzku eins og kirkja, biblía, penni, pappír, kaffi, sykr, te, sem vitanlega öll eru óíslenzk að uppruna.

## Biblíufrœðin nýja.

Eftir séra Björn B. Jónsson.

### I. SÖGULEGT YFIRLIT.

(Áframhald).

Hin ,,hærri kritík" gamla testamentisins, sem nú sem stendr ber miklu meira á en nýja testamentis ,,kritíkinni", á rót sína aðallega að rekja til þriggja frœðimanna. Fyrstr þeirra er Richard Simon (1638—1712), rómversk-katólskr rit-

höfundr, sem kom fram með nýjar skoðanir á gamla testamentinu, einkum Mósesbókunum. Annar var Jóhann Semler (d. 1791), sem þótt hann væri trúaðr og góðr maðr, leitaðist of-mjög við að samríma biblíuna hinum margvíslegu vísindalegu tilgátum þeirrar tíðar og varð því í raun og veru faðir þýzku skynsemistrúarinnar. Hinn þriðji þessara manna var J. G. Eichhorn (d. 1827), sem sökum bókar sinnar, *Sögulegar skýringar á biblíunni*, hefir stundum verið kallaðr faðir „hærri kritíkarinnar". Af þessum mönnum tóku þeir við Gesenius (d. 1842) og Ewald (d. 1875). Meðal þeirra, sem síðan hafa haldið áfram hinum niðrrífandi rannsóknum mætti einkum nefna Vatke, Graf, Kuehnen, Wellhausen, Hetzig, Lagarde, Dillmann, Diestel, Merx, Stade, Siegfried, Kautzch, o. fl. á þýzkalandi; W. Robertson Smith, Cheyne, Driver o. fl. á Bretlandi; og dr. Briggs hér í Ameríku.

þessi stefna hefir viljað umskapa allar skoðanir manna á Mósesbókunum og Jósúabók, að því er höfunda og samsetning þeirra snertir, Esajasar spádómsbók, einkum að því er seinni partinn snertir (40.—66. kap.), spádómsbók Daníels, sálmum Davíðs og ritum Salómons. Og lang-flestar bœkr gamla testamentisins hafa verið að einhverju eða öllu leyti vefengdar. Breytingum þessum hafa og verið önnur nýmæli samfara, sem eðlileg afleiðing þessarar nýju skoðunar. Nýmælin eru einkum fólgin í neitan á innblástrskenningunni eins og hún er kennd í játningarritum kirkjunnar, og, það sem ískyggilegast er, neitan á því, að sjálfr frelsarinn hafi verið þeim hœfileikum gœddr, að geta dœmt um gildi gamla testamentisins svo að óyggjanda sé. þetta síðar nefnda nýmæli var nauðsynlegt, því ómögulegt var að mótmæla því, að Kristr hafi haft hina „gömlu", „óvísindalegu" skoðan á bókum gamla testamentisins. Talsmaðr „biblíurannsóknanna nýju" á Íslandi, séra Jón Helgason, hefir líka borið upp bæði þessi nýmæli.

„Rannsóknirnar nýju" hafa aðallega gengið út á að sundrliða texta biblíuritanna. „Vísindamennirnir", sem þeim fylgja fram, hafa komizt að þeirri niðrstöðu, að hitt og þetta orðatiltœkið tilheyri hinum og þessum stað og tíma. Oft á

málið að bera það með sér, að sumar bækrnar sé skráðar á fleiri tímabilum, sinn kaflinn á hverri öld, ef til vill, og sinn af hverjum manni. Í öðru lagi byggja þeir á því, að vissum tímabilum tilheyri sérstök löggjöf og siðvenja þjóðarinnar, og hafa þeir nákvæmlega fellt saman tímabilin og siðvenjurnar og dregið svo ályktanir sínar út af þeim getgátum. Á þann hátt hafa þeir t.d. komizt að þeirri niðrstöðu, að spádómarnir sé eldri en lögmálið og sálmarnir yngri en hvorttveggja. Þeir segja jafnvel, að ekkert af gamla testamentinu hafi verið til fyrir daga þeirra spámannanna Hóseasar, Amosar og Esajasar og samtíðarmanna þeirra á áttundu öld fyrir Krist.

Eg hefi sagt hér að framan, að þessi byltinga-alda nútíðar-hugsunarháttarins og rannsókna-tilhneiging hafi náð til annarra fræðigreina auk guðfræðinnar, t. d. bókmenntanna. Eg ætla að leyfa mér að nefna tvö dœmi þess, hvernig þessi sami andi og aðferð hafa komið fram í bókmenntalegum rannsóknum.

Bókstaflega sama aðferð og aðferð biblíurannsóknanna hefir verið viðhöfð til að sanna það, að tvö grísku skáldverkin miklu, Ilíonskviða og Odysseifskviða, sé ekki samin af Hómer, eins og heimrinn hefir trúað um allar þessar aldir, heldr hafi þau upprunalega verið mörg sérstök þjóðkvæði, sem síðar hafi verið safnað í eina heild af mönnum, er uppi voru löngu seinna, og hafi þeir hver um sig aukið þau og bœtt. Kenning þessi er að mestu leyti byggð á málfrœðislegri rannsókn og líkum, mjög svipuðum þeim, sem „rannsóknarmennirnir nýju“ byggja á staðhœfingar sínar biblíunni viðvíkjandi. Þeir tóku listaverk Hómers sundr lið fyrir lið, settu svo saman aftr. En sjá! þá voru orðnar til margar bœkr eftir marga höfunda, en Hómer horfinn — alveg eins og Móses.

Fremstr foringi í flokki þessum var Wolf. Formáli hans (Prolegomena) við Iliónskviðu (saminn 1795) er enn þá merkasta ritgjörðin, sem „hærri kritík“ Hómers-ljóðanna hefir fram leitt. En síðan á dögum Wolfs hefir margt breytzt í fornfrœðinni; heill kapítuli, er týndr var úr mannkynssögunni, hefir fundizt. Aðal-ástœða Wolfs er fallin, sú, að Hómer hafi ekki getað kunnað að skrifa. Það er nú sannað, að

Hómer lýsir verulegu, en lengi vel óþekktu menningarstigi mannkynsins, sem nú fyrst skilst að nokkru fyrir fornleifarannsóknirnar við Mykenai, Tiryns, Orchomenos og Amyklai. Og svo hefir Hómers ,,hærri kritíkin" nærri algjörlega fallið um koll og gleymzt.

Hitt dœmið upp á þá ,,hærri kritík" bókmenntanna, sem í eðli sínu líkist ,,biblíurannsóknunum nýju", er tilraun sú, er Ignatius Donnelly gjörði í bók sinni *The Great Cryptogram* og áréttaði með fyrirlestrum sínum í tveimr heimsálfum, til að sanna, að aldrei hafi verið til skáldið Shakespeare, en að leikritin heimsfrægu, sem við hann eru kennd, sé eftir Francis Bacon.

Það er að sjá, að Bacon hafi átt eina mjög algenga minnisbók, og er hún nú geymd í British Museum. Í þessa bók hafði hann skrifað 1,655 smágreinir. Mörg orðatiltœki og spakmæli þessara greina eru ekki ólík sumum orðatiltœkjum og spakmælum Shakespeares. Frú Pott hefir fundið 4,402 orðatiltœki í þessari vasabók Bacons, sem að ,,meira og minna leyti" eru eins og hjá leikritaskáldinu mikla. Þannig eru t. d. í einni málsgrein í *Romeo og Juliet* tvö einkennileg orð, sem líka finnast í vasabók Bacons. Annað er orðatiltœkið ,,golden sleep", en hitt er nýja orðið ,,uproused". Og svo segir postuli þessara hærri vísinda: ,,Fyrir þann, sem þekkir lögmál tilviljananna, eru þessar ‚tilviljanir' nærri því jafngildar reikningsfrœðislegum sönnunum"! Og svo var ályktað, að Shakespeare hafi aldrei skrifað staf. Fyrir einum tíu árum gekk svo sem ekki lítið á bæði hér í Ameríku og á Englandi yfir þessum nýju bókmennta-vísindum. Jafnvel John Bright aðhylltist hina nýju skoðan. En síðan hefir ,,rannsókn" þessi verið hlegin í hel og er nú eigi talin meira virði en sumar samkynja getgátur ,,biblíurannsóknanna nýju".

Því er ekki að neita, að nýja biblíufrœðin, kritíkin, sem viljað hefir rífa sundr alla biblíuna, náði mikilli útbreiðslu, og margir álitu víst um tíma, að hún ætlaði að verða ofan á. En nú er að verða breyting á þessu bæði á Þýzkalandi, Englandi og í Ameríku. Nú er svo komið í öllum þessum löndum, að það er fremr orðið um vörn en sókn að rœða af hálfu ,,van-

trúar-vísindanna". ,,Vísindamenn", hinum engu síðri, hafa þessi síðustu ár hafið stríð á hendr ,,rannsóknunum". Þarf eigi annað en benda á starf þeirra Zahns, Rupprechts og rithöfundanna í tímaritinu *Beweis des Glaubens* á Þýzkalandi; Cave's, Douglas', Ellicott's, Girdlestone's, Leathe's, Sayce's og Lias á Bretlandi; og þeirra Green's, Biesell's og Bartlett's hér í landi.

Í Vestrheimi hafa helztu talsmenn nýju ,,vísindanna" verið þeir prófessorarnir Briggs, Smith, McGiffert og Mitchell. Þeim mönnum, sem fylgt hafa með í kirkjusögu landsins, er ekki ókunnugt um, hvernig hinir sérstöku kirkjuflokkar, sem hver þessara manna um sig tilheyrði, tóku nýmælum þeirra. Kenningar þeirra voru á kirkjuþingum dœmdar háskalegar og ókirkjulegar, og enginn kirkjuflokkr, sem telr sig til ,,orþodoxu" kirkjunnar, hefir viðrkennt þessar nýju skoðanir. Aftr á móti hafa Únítarar og Úníversalistar tekið við þeim báðum höndum, og þangað hverfa þeir æ fleiri, sem hallast hafa að nýju kenningunum, þótt þeir fæstir í fyrstu hafi gjört sér grein fyrir því, að þangað myndi leiðin liggja. Enginn neitar því, að hin ,,hærri kritík" hafi náð tangarhaldi á sumum skólum landsins, en hún hefir ekki náð til kirkjuskólanna. *Kirkjan* hefir hafnað henni. Aðal-hœli ,,rannsóknar-vísindanna" er háskólinn í Chicago, sem auðmaðrinn Rockefeller, olíu-konungrinn mikli, stofnaði og styðr, en dr. Harper stýrir. Skóli þessi er annars frægastr fyrir milíónir Rockefellers og fyrir hlœgilega framkomu sumra kennara sinna, eins og það, þegar einn þeirra var hér á dögunum að sanna það ,,vísindalega", að hr. Rockefeller með sína olíu væri jafn-mikill andans snillingr eins og Shakespeare!

,,Hærri kritíkin" hefir orðið algjörlega undir í Ameríku yfirleitt, og að því er snertir hina lútersku kirkju hér í landi, þá hefir ,,kritíkin" hvergi nokkursstaðar komizt að. Lúterska kirkjan í Bandaríkjunum á um þrjátíu prestaskóla, og í þeim öllum er fylgt fastlega ,,gömlu" kenningunni um guðs orð. Á *College*-skólunum ríkir auðvitað sama stefna; og óhætt er að fullyrða, að fœrum vér Íslendingar að taka

ástfóstri biblíu-vísindin nýju, fengjum vér með þau í kjöltunni hvergi sæti í nokkrum lúterskum skóla þessa lands.

Á Þýzkalandi er nú komin á stað afar sterk hreyfing móti „hærri kritíkinni". Þar er byrjað hið harðasta stríð milli kirkjulýðsins, presta og safnaða, annars vegar, en guðfræðinganna við háskólana hins vegar. Þar hagar nefnilega svo til, eins og annarsstaðar í Norðrálfunni, að guðfræðiskennsluna hefir kirkjan ekki beinlínis með höndum, heldr ríkið. Guðfræðin er kennd við ríkisháskólana eins og hver önnur vísindagrein, læknisfræði, lögfræði o.s.frv. Kemr þar fram eitt dæmi ógagns þess, sem kirkjan hefir af því, að vera ríkinu áhangandi og undir stjórn veraldlega valdsins. Kirkjan sjálf hefir ekkert vald, þar sem svo er ástatt, til að segja fyrir um trúarlærdómana og ráða því, hverjir kenni guðfræðina, og er að því leyti varnarlaus gegn árásum á trúarjátning sína. Enda hefir vantrúin einatt átt athvarf og hœli við háskólana; trúin hefir verið gjörð að ambátt „vísindanna" og orðið stundum þegjandi að lúta tilgátum og augnabliks œsingum þeirra. Nú nokkurn undanfarinn tíma hefir hin „hærri kritík" setið í öndvegi við háskólana á Þýzkalandi og kennararnir þar virt vettugi trúrjátningar kirkjunnar, þegar eigið hugboð þeirra hefir viljað annað. Þeir hafa hvað eftir annað lýst yfir því, að þeir væri algjörlega óháðir kirkjunni. Ein slík yfirlýsing kom út nú alveg nýlega af munni prófessors Kruegers, kennara í kirkjusögu við háskólann í Giessen. Hann kemst þannig að orði:

„Eg játa það opinberlega, að eg skoða verk mitt sem háskólakennara *ókirkjulegt*. Það er ókirkjulegt meðal annars vegna þess, að þegar eg er að fást við rannsóknir mínar, læt eg mér ekki detta í hug að spyrja, hvort ályktanir mínar þóknast kirkjunni eða ekki, eða hvort hún skoðar velferð sinni hættu búna þeirra vegna.—Eg hefi jafnvel tilhneiging til að ganga lengra og segja, að eg skoði aðalverk háskólakennarans fólgið í því, sem í fyrstu hlýtr að hræða kirkjuna. Vort eiginlega verk er *að stofna sálum í voða*."

Þessu til skýringar segir hann svo:

„Engin trúarskoðan getr verið algjörlega bindandi á öll-

um tímum, hvort sem hún er byggð á biblíunni eða trúarjátningunum. Það er ætlunarverk guðfræðiskennarans að trufla barnatrú nemendanna og leiða þá til efasemda; og til eru þeir, sem á þessari hættulegu leið glatast. Þess vegna er það ætlunarverk vort að stofna sálum í voða."*)

Þessi algjöri aðskilnaðr háskólaguðfræðinnar og kirkjunnar almennt hefir verið opinbert leyndarmál á Þýzkalandi síðan deilurnar um postullegu trúarjátninguna hófust þar fyrir sex árum, þegar háskólaguðfræðin ætlaði að neyða kirkjuna til að kasta burtu þeirri allsherjar trúarjátning kristninnar fyrir þá sök, að henni bæri ekki saman við hina nýju vísindalegu guðfræði. Og nú loks hefir þetta leitt til öflugra samtaka meðal presta og leikmanna víðsvegar um Þýzkaland gegn háskólaofdirfskunni. Afleiðing þessara samtaka er þegar orðin það, að stjórnin hefir verið neydd til að setja kennara, sem íhaldsstefnunni fylgja og kenna hin „gömlu" fræði við nokkra háskólana, t. d. í Bonn, Marburg og við Tybingen-skólann. Svo langt er aftrhvarfinu komið. Eg hafði sagt, að breyting væri að verða á Þýzkalandi. Eg þykist nú hafa fundið þeim orðum mínum stað.

Nú skal eg með fám orðum minnast á ástandið á Englandi.

Í September í haust hélt enska kirkjan fertugasta ársþing sitt í New Castle-on-Tyne. Eitt aðal-umræðuefni á þinginu var hin „hærri kritík". Blaðið *London Times* (frá 25. Sept.) gefr útdrátt úr tveim ræðum, sem þar voru fluttar. Aðra þeirra flutti Jakob biskup, en hina prófessor Margoliouth. Hinn síðar nefndi er einhver mesti Austrlanda-fræðingr, sem nú er uppi. Blaðið segir, að biskupinn „hafi viljað láta taka á móti tilgátum rannsóknanna með varkárni", og segir, að allar umræðurnar, þó einkum ræða hins áðr nefnda prófessors, hafi ótvíræðlega lýst meiri íhaldsstefnu en menn hafi átt að venjast.

Blaðið *Saturday Review* (29. Sept.) er augsýnilega sérlega óánægt yfir hugsunarhætti kirkjuþingsins og kemst þannig

---

*) Þýtt úr New York *Independent*.

að orði: ,,Frumtónn þingsins var aftrhvarf til fyrri stefnu. Það kom bezt í ljós í umrœðunum um gamla testamentis rannsóknirnar. Fyrirlestr próf. Margoliouths, sem greinarhöfundrinn í *Times* segir að hafi verið ,,framúrskaranda snilldarverk", gekk út á að lýsa óförum nýju rannsóknanna og spáði, að sú stefna myndi algjörlega falla, enda sagði fyrirlesarinn henni vægðarlaust stríð á hendr". Svo lætr blaðið gremju sína í ljósi og segir: ,,Andrúmsloft þess kirkjuþings, þar sem svona er talað af sannfœring og við því tekið með ánœgju, hlýtr að vera meir en lítið skemmt." Heldr blaðið svo áfram að fárast yfir, hve veigalitlar hafi verið mótbárurnar gegn þessari aftrhvarfsstefnu og hve lítinn byr þær hafi fengið.*)

Á þessu þingi sátu merkustu menn ensku kirkjunnar. Þykist eg með því að benda á þetta teikn tímans einnig hafa fœrt sönnur á það mál mitt, að aftrhvarf sé að verða á Englandi.

Í skandínavisku löndunum rís um þetta leyti rannsóknaraldan sem hæst, er þar komin það skemr en í hinum stœrri og stórstígari löndum, að hún er víst ekki enn farin að hjaðna aftr. Við báða háskólana í Svíþjóð er guðfrœðin all-mikið sýrð af ,,kritíkinni". Hjá hinu unga kennarakyni í Kristjaníu er hún sögð all-skœð. En hæst rís þó aldan víst í Kaupmannahöfn. En fyrir þetta má þó enginn draga þá ályktan, og enginn í alvöru láta sér um munn fara, að allr þorri kristinna manna í þessum löndum sé fallinn frá gömlu kenningunni um biblíuna. Slíkt verðr engan veginn sagt jafnvel um þá þjóðina, sem einna lengst er komin í fráfallinu. Séra Jóni Helgasyni varð hált á að tala svo ógætilega. Ritstjóri ,,Eimreiðarinnar", sem sjálfr augsýnilega aðhyllist þó skoðanir séra J. H., setr ofan í við hann fyrir staðhœfing í þá átt og segir: ,,Þar sem hann (séra J. H.) staðhœfir, ,að þessi nýja skoðan á ritningunni hafi öðlazt svo almenna viðrkenning í kirkjunni, að meðal málsmetandi manna verði ekki fundinn einn einasti, er láti sér til hugar koma að verja hina gömlu inn-

*) Þennan útdrátt úr blöðunum hefi eg eftir *Literary Digest*.

blástrs-kenning eða mæla henni bót', þá virðist oss hann hafi stigið feti framar en hann geti varið. Hér í Danmörk er að minnsta kosti sá flokkr guðfræðinga, sem heldr við hina gömlu skoðan, fullt svo öflugr og líklega miklu öflugri en hinn. þar eru allir heimatrúboðs-klerkarnir og sumir aðrir líka. Og enginn mun geta annað en talið Vilhelm gamla Beck meðal málsmetandi presta ; en einmitt hann hefir opinberlega veitt guðfræðiskennurum háskólans hina svæsnustu ofanígjöf fyrir að þeir væri farnir að aðhyllast hina nýju skoðan".*)—það hafa fleiri hneykslast á óvarkárni séra J. H.

Og svo er loks aldan runnin upp til Íslands. Séra Jón Helgason hefir með áhuga miklum, en lítilli gætni, gjörzt þar talsmaðr nýju skoðunarinnar. En eg tel víst, að ómögulegt sé, að sú skoðan hafi enn þá rutt sér þar mikið til rúms, því allr þorri prestanna hefir lesið guðrfræði sína við prestaskólann áðr en séra J. H. kom þangað með nýmæli sín. Og sá maðrinn, sem fram til fárra ára hafði mest og blessunarríkust áhrif á prestaskólann, séra Helgi heitinn Hálfdanarson lektor, var, að því er barnalærdómsbókin hans ber með sér, sálmarnir hans og önnur ritverk, og samkvæmt því, sem nákunnugir skýra frá, mjög gagnstæðr þessari nýju biblíufræði. Að honum hafi einmitt legið á hjarta að verja heilaga ritning gegn árásum nýju rannsóknanna, sem bæði vilja slaka til og taka af guðs orði, og að þetta hafi meðal annars *einkennt* starf hans, á það bendir þetta erindi í eftirmælunum eftir hann :

,,Hann kristinn var. Hann kunni' ei til að slaka
við kreddur þær, er biblíuna rengja;
af orði guðs hann ekkert vildi taka,
og engin *nýmæli* við guðs orð tengja.
Og sem hann kenndi, svo og lifði þessi
sannkristinn bróðir. Guð hans minning blessi."

,,Kbl." IV. 3.

Enn sem komið er er ómögulegt að segja, hver áhrif ,,nýmælin" kunna að hafa á íslenzku kirkjuna. Samt þarf enginn að óttast, að þau verði ofan á um síðir. En þess vildi eg

*) ,,Eimr." VI. ár, 1.--2. hefti.

feginn óska, að prestaskólakennarinn í Reykjavík, sem tekið hefir svo miklu ástfóstri þessa nýju ókirkjulegu biblíufræði, ekki yrði til þess, eins og þýzki guðfræðiskennarinn segir um sig, „að stofna sálum manna í voða".

## Nokkur orð um ferminguna.

Eftir séra N. Steingrím Þorláksson.

„Gæt þú lamba minna", sagði drottinn vor Jesús Kristr við Símon Pétr. Það voru Pétri ógleymanleg orð; því hvernig átti hann að geta gleymt spurningunni tvíendrtekinni: „Elskarðu mig?" Hann fann þó til þeirrar spurningar. Og þá fann hann líka til þess, hvílíkt áhugamál það væri drottni hans, að „lambanna" hans væri gætt. Það boð las hann, lærði og mundi, við ljós þeirrar spurningar. Við ljós þeirrar spurningar þurfa allir lærisveinar hans að lesa þessi sömu orð frelsarans. — Svo minni eg enn fremr á orð Jesú til lærisveina hans í sambandi við innsetning skírnarinnar, þessi orð: „Kennið*) þeim (hinum skírðu) að gæta alls þess, sem eg hefi boðið yðr". Vitanlega talar nú frelsarinn á báðum stöðum einnig til kirkjunnar. Henni er falin á hendr gæzla „lambanna". Við hana sagt: kenn þeim, sem skírðir eru, að gæta alls þess, sem eg hefi boðið yðr. Gáum að, hann segir ekki: *kenn* þeim það, heldr: kenn þeim að *gæta* þess, halda það, gjöra það.

Nú, hvað á kirkjan svo að gjöra? Getr henni staðið á sama, hvort „lömb" frelsarans verði hirt eða vanhirt? Afneitaði hún þá ekki trú sinni? Afneitaði hún ekki kærleika sínum? Og væri hún ekki um leið að taka lífið af sjálfri sér?

Vilji kirkjan sýna það, að hún sé lifandi kirkja, verðr hún að gæta „lambanna". Og ef hún er lifandi og elskar drottin sinn, þá gjörir hún það að sjálfsögðu. Hún gjörir það af hlýðni við drottin sinn, vegna sinnar eigin framtíðar, og af hlýðni við það andans lögmál, það lífsins lögmál, sem

*) Þetta er nákvæmari þýðing gríska orðsins í Matt. 28, 20 en „bjóðið" í íslenzku biblíunni.—Ritst. „Sam."

henni stjórnar. En á hvern hátt leitast hún svo við að fullnœgja þessu?

Eitt af meðulum kirkju vorrar til þess að fullnœgja með þessu boði drottins og þessu sínu eigin andans lögmáli, er *fermingin*. Gáum að því: fermingin er meðal, kirkjulegt meðal, en ekkert takmark, eins og sumir virðast halda.

Það er nauðsynlegt að gjöra sér vel grein fyrir því, hvað fermingin er, svo ekki sé annaðhvort gjört of mikið eða of lítið úr henni. Hún er ekki *kristnan*, í orðsins eiginlegu merking. Það er ekki verið að gjöra heiðið barn að kristnu barni, eða barn, sem stendr fyrir utan kirkjuna, að lim kirkjunnar. —Fermingin er ekki heldr fullkomnan eða staðfesting á skírninni. Barnaskírnin sjálf er fullkomin skírn, eins og náttúrlega fœðing barnsins er fullkomin fœðing. Það þarf ekkert að gjöra, né heldr er unnt að gjöra neitt, til þess að gjöra hana fullkomnari en hún er. Líka er það ekki *skírnin*, sem þarf staðfestingar við, heldr *barnið*. —Barnið tekr ekki heldr upp á sig með fermingunni skyldur, sem ekki hvíldu á því áðr en það fermdist. Hér er um engar sérstakar skyldur að rœða, sem kristinn maðr ætti að geta komizt hjá með því ekki að láta ferma sig. Fermdr maðr hefir engar aðrar skyldur en hver annar kristinnn maðr; því í sama skilningi sem hin líkamlega lífsskylda hvílir á barninu, hvílir hin andlega lífsskylda á hinu skírða barni. Barnið fœðist til þess að lifa. Barnið skírist til þess að lifa andlega. —Þá er fermingin ekki heldr að eins athöfnin, sem fram fer í kirkjunni, heldr er hún öll sú starfsemi kirkjunnar, sem miðar til þess að staðfesta barnið í skírnarnáðinni í samfélaginu við guð.

(Meira.)

---

## Bœkr gefnar bókasafni ísl. kirkjufélagsins.

a, frá hr. Sumarliða Sumarliðasyni: Paulsen: Naturkræfterne I—III, Khavn 1874, 77, 70 Luetken: Opfindelsernes Bog I—VII, Khavn 1877, 78, 79, 80, 81, 83. Stanley: Gjennem det mörke Fastland I—II, Kristjania 1878. Spry: Korvetten Challengers Rejse omkring Jorden, Khavn 1879. Johnston: Hverdagslivets Chemi, Khavn 1863. Hartwig: Underverdenen med dens Skatte og Vidundere, Khavn 1864. Tuxen: Stjerneverdenen, Khavn 1872. Bakewell: Vort Aarhundredes mærkeligste Opfindelser, Khavn 1859. Thornam: Almindeligt Sundhedsleksi-

kon, Khavn 1882. Hals: Folkeligt Maanedsskrift helliget Homöopathien I—IV árg 1874-77 (án titilblaðs). Raspail: Huslægen, Khavn 1857. White: The Great Controversy between Satan and Christ, Battle Creek, Mich. 1888. Zschokke: Husandagtsbog, Khavn 1857. Eiríksson: Kunne vi elske Næsten som os selv? Khavn 1870. Eibe: Kursus paa 100 Timer i Engelsk, Khavn 1883. Arrhenius: Jordbruklaerans Hufwudgrunder, Stockholm 1870. Howel: Breve fra Helvede, Khavn 1871. Aasen: Norske Ordsprog, Kristjania 1855. Löberg: Norges Fiskerier, Kristjania 1864. Janson: Fraa Dansketidi, Bergen 1875. Sigurðsson: Om Islands statsretslige Forhold, Khavn 1855. Ný félagsrit 27., 28. og 29. ár Guðmundsson: Alþingistaðr hinn forni við Öxará, Khöfn 1878. Espólín: Tilraun skiljanlegrar útleggingar Opinberunarbókar Jóhannesar, Akreyri 1855. (Þessar bækr allar frá hr Sumarliða eru enn í vörzlum séra Friðriks Bergmanns.)

b, frá hr. Ólafi S. Þorgeirssyni, Wpeg: Hrói Höttr, Rvík 1900, óbd.

c, frá hr. Snorra J. Reykjalín, Wpeg: Dominicale (Handbók presta), Hólum 1750. Gerhardi hugvekjur, Hólum 1753, og Hugvekjusálmar sr. Sigurðar Jónssonar, Hólum 1747—sambundið.

d. frá húsfrú Hólmfríði Goodman, Tindastól, Assa.: Flokkabók, Hólum 1780.

e, frá hr. Jónasi Húnfjörð, Tindastól, Assa.: Hólmganga, Hólum 1743. Eintal sálarinnar (eftir Arngrím Jónsson), Hólum 1651. Vegleiðsla til talnalistarinnar (Olavius), Kh. 178?. Fæðingarsálmar, Viðey 1834. Landafræði (Erslev), Rvík 1878. Baird: Afholdenheds-Selskabernes Historie i de Forenede Stater, Khavn 1841.

f, frá hr. Sigurði J. Jóhannessyni, Wpeg: Píslarhugvekjur (Vigfúss Jónssonar), Kh. 1851. Versasafn án titilblaðs, frá Viðey. Viku-Sálma og Bæna-safn, Akreyri 1856. Zschokke: Husandagtsbog, Khavn 1857. Sálmabók (miðbók 19. aldarinnar, 3. útg.), Rvík 1882.

Beztu þökk fyrir allar þessar bókagjafir.

JÓN BJARNASON.

---

Gjöf frá hr. Sumarliða Sumarliðasyni í skólasjóð $5.00.

---

Hr *Jón A. Blöndal*, 567 Elgin Ave., Winnipeg, er féhirðir ,,Sam.“

---

Hr. *Magnús Pálsson*, 309 Elgin Ave., sendir ,,Sam.“ út.

---



,,SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS, — WINNIPEG.